# LÖG
# BINDINDISMANNA
## Í REYKJAVÍK.

## I. atriði.

*1. grein.*

Einginn fèlagsmaður má bergja neinum áfeingum drykk eða víni án læknisráði. Það er auðvitað, að þessi grein breytir ekki nautn heilagrar kvöldmáltiðar frá því, sem er.

*2. grein.*

Leyfilegt er að drekka öl sè það ekki megnt.

*3. grein.*

Sèrhver fèlagsmaður skal æ gjöra slíkt, sem honum er lagið, til að leiða sem flesta bæarmenn og landa vora til þessa fèlagsskapar með sannfæringum.

*4. grein.*

Einginn fèlagsmaður má hafa á boðstólum nokkurn áfeingan drykk, nema honum þyki sem manns líf muni við liggja. Þó meiga verzlunarmenn og þjónar þeirra selja ölfaung einsog annan varníng sinn; en bjóða skulu þeir þau ekki og byrla sem minnst og ekki utanbúðar.

*5. grein.*

Verði nokkur fèlagsmanna uppvís að því, að hafa brotið lög fèlagsins, skal hann í fyrsta sinn mæta hjá forseta, er einslega vari hann við að brjóta þau ekki optar; brjóti hann í annað sinn, skal hann sæta áminníngu af forseta, í viðurvist tveggja nefndarmanna; en ef hann brýtur þrisvar, skal hann rækur úr fèlaginu, en eiga þó apturkvæmt að missiri liðnu.

*6. grein.*

Þegar einhver segir sig úr fèlaginu, eða honum er vikið úr því, skal gefa það fèlagsmönnum brèflega til vitundar.

## II. atriði.

*1. grein.*

Tveir skulu vera forsetar fèlagsins, er veiti því alla forstöðu og stjórni því. Þeir skulu annast um inntöku þeirra í fèlagið, sem í það vilja gánga, milli þess að fundir eru haldnir, og vara þá, sem brjóta, samkvæmt 5. gr. bindindislaganna. Einnig skulu þeir boða fundi og stjórna þeim og sjá um, að allt fari vel og reglulega fram á þeim.

*2. grein.*

Sjö menn skulu kosnir í nefnd til að aðstoða forseta í útvortis stjórn fèlagsins. Tveir þeirra skulu samkvæmt bindindislaganna 5. grein vera viðstaddir, þá forseti áminnir í annað sinn.

*3. grein.*

Einn mann skal velja fyrir skrifara fèlagsins. Hann skal á fundum og utanfunda bóka það, sem forsetar segja honum.

*4. grein.*

Einhvern fèlagsmanna skal velja fyrir gjaldkera, sem annist alla reiknínga fèlagsins, og riti þá í bók hjá sèr, og gjöri forsetum fjárskil árlega.

*5. grein.*

Þrisvar á ári skulu allir fèlagsmenn eiga fund með sèr, og köllum vèr þá aðalfundi. Sá fyrsti skal haldinn um veturnætur, annar um miðjan vetur, og hinn þriðji á vori. Á þeim fundum halda forsetar ræðu.

*6. grein.*

Á fundum skal ræða öll málefni, sem fèlaginu eru áríðandi. Á hverjum haustfundi skal velja forseta, skrifara og gjaldkera, og má velja þá sömu aptur. En á hverjum aðalfundi skal velja sjömanna-nefndina.

---

Prentuð í prentsmiðju landsins, í Marz-mánuði 1848.